enn gæfa þín; ok mun ek eigi svíkja þik", sagði Þórsteinn. „Sé ek at þú er afbragðs maðr", sagði Bjarni. „Lofa muntú mér, at ek ganga inn til föður þíns", segir hann, „ok segi honum slíkt er ek vil". „Gakk sem þú vilt fyrir mínum sóknum", sagði Þórsteinn „ok far þó varlega".

7. Þá gekk Bjarni inn, ok at lokhvílu þeiri, er Þórarinn karl lá í. Þórarinn spurði, hverr þar fœri? Bjarni sagði til sín. „Hvat segir þú tíðinda, Bjarni minn?" segir Þórarinn. „Víg Þórsteins sonar þíns", segir Bjarni. „Varðist hann nökkut?" segir Þórarinn. „Engan mann ætla ek snarligra verit hafa í vápnaskiftum enn Þórstein son þinn", segir Bjarni. „Eigi er kynlegt at því", segir karl, „at þungt veitti við þik í Böðvarsdal, er þú bart nú af syni mínum". Þá mælti Bjarni: „Ek vil bjóða þér til Hofs, ok skaltú sitja þar í öðru öndvegi meðan þá lifir, ok mun ek vera þér í sonar stað". „Svá er mér farit", segir karl, „sem þeim, er eigi eigu undir sér, ok verðr heitum heimskr maðr feginn. Enn svá eru heit yðar höfðingja, þá er þér vilit fróa mann eftir slíka atburði, at þat er mánaðar-fró; enn eftir þat eru vér virðir sem aðrir framfœrslumenn, ok fyrnast við þat seint várir harmar. Enn sá maðr þrífist aldregi, er ekki tekr handsöl af þér, ok gakk þú nú hingat til mín í rekkjugólfit, ok

verðr þú nær at ganga, því at karl skelfr nú allr á fótum fyrir elli sakir ok vanheilsu, enn eigi trútt, at mér hafi eigi í skap runnit sonardauðinn". Bjarni gekk nú í rekkjugólfit í hendr Þórarins karls. Hann fann, at hann þuklaði á saxi, ok vildi þá leggja til Bjarna. Hann kipti hendinni ok mælti: „Allra fretkarla armastr. Mun nú at makligleikum fara með okkr. Þórsteinn sonr þinn lifir, ok skal hann fara heim með mér til Hofs, enn þér skal fá þræla til forverka, ok skal þér engis vant meðan þú lifir". Þórsteinn fór nú heim með Bjarna til Hofs, ok fylgdi honum allt til dauðadags, ok þótti nær engis manns maki vera at drengskap ok hreysti.

8. Bjarni helt virðingu sinni, ok var hann því vinsælli ok betr stilltr sem hann var ellri, ok var allra manna þrautbeztr ok gerðist trúmaðr mikill hinn síðara hlut ævi sinnar. Bjarni fór útan ok gekk suðr, ok andaðist í þeiri ferð. Hann hvílir í borg þeiri, er Valería heitir, ok er þat mikil borg skamt hingat frá Rúmaborg. Hans son var Skegg-Broddi, er víða kemr við sögur, ok var hinn mesti afbragðsmaðr um sína daga. Dóttir Bjarna hét Halla, ok Guðríðr, er Kolbeinn lögsögumaðr átti. Ingveldr var ok dóttir Bjarna, er Þórsteinn Síðu-Hallsson átti, ok var þeira son Magnús, faðir Einars, föður Magnúsar biskups. Ögmundr var ok sonr Þór-

steins ok Ingveldra; hann átti Sigríði dóttur Þórgríms blinda. Þeira dóttir (var) Hallfríðr móðir (Ámunda), föður Guðmundar, föður Magnúss góða ok Þóru, móður Gissurar jarls, ok annarrar Þóru, móður Orms Svínfellings. Guðrún var ok dóttir Ögmundar, móðir Þórdísar, móður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona: Þórðar, Sighvats og Snorra. Rannveig var ok dóttir Ögmundar, móðir Steins, föður Guðrúnar, móður Arnfríðar, er Digr-Helgi átti. Þórkatla var ok dóttir Ögmundar, móðir Arnbjargar, móður Jóns prests ok Þórgeirs ok Þuríðar, ok er margt stórmenna frá þeim komit. Ok lýkr hér sögu-þætti Þórsteins stangarhöggs.

34.

# Þórsteins þáttr Tjaldstœðings.

Úlfr hét maðr, er bjó á Þelamörk; hann var hersir; hann bjó á Fíflavöllum í Tindsdal. Son hans hét Ásgrímr; hann átti Þórkötlu, er köllut var bringa. Ásgrímr tók við föðurleifð sinni ok var hinn mesti mannsómamaðr. Enn er Ásgrímr fór í víking þá var kona hans vanheil, ok vildi Ásgrímr láta út bera barnit. Hon varð léttari um kveldit, er hann skyldi fara um morgininn. Ásgrímr kvaddi til þræl sinn, at grafa sveininn. Hann svarar: „Mun eigi ráð, at búa gröfina?“ Ásgrímr kvað þat vel mega. Enn sveinn lá á gólfinu. Þá heyra þeir at sveinninn kvað:

> Látit mög til móður;
> mér er kalt á gólfi;
> hvar mun sveinninn sœmri
> enn at síns föður örnum?
> Þarf eigi járn at eggja
> né jarðar-men skerða;

léttit ljótu verki;
lifa vil ek enn með mönnum.

Þá mælti Ásgrímr: „Víst skaltú lifa, frændi, ok munt verða hinn mesti merkismaðr af þessum fyrirburð“. Síðan lét Ásgrímr hann vatni ausa, ok var kallaðr Þórsteinn. Þá var Haraldr hinn hárfagri konungr yfir Noregi ok hafði mjök lagt allt land undir sik at sköttum. Hann heimti til sín þann mann er Þórormr hét, ok var konungs-frændi ok bjó í Þrumu. Konungr mælti: „Ek veit, at eigi hafa skattar goldizt af Þelamönnum. Nú vil ek at þú heimtir af Ásgrími, syni Úlfs hersis, því at engum gef ek upp mína skuld. Enn þat hefi ek sannfregit, at þeir feðgar hafa mikinn áhuga haft, síðan er ek fekk Noreg með svá miklu starfi, þá vil ek hann hafa með öllum skyldum“. Þórormr kveðst mundu fara erinda konungs: „Enn lítt segir mér hugr um, at þeir muni svara“. Konungr mælti: „Þá skal vita, hvárir ríkari eru; enn mæl til allis vel í fyrstu“. Ferr hann nú ok hittir Ásgrím, berr upp konungs-erindi, ok krefr þar þvílíks fjár sem annarsstaðar: „Nú gerit yðr eigi endemi, at halda réttu fyrir konungi“. Ásgrímr svarar: „Þat hygg ek at mínir frændr siti á þessum eignum skattlausum. Enn þótt konungr sjá ágirnist meira enn menn viti dœmi til, þá vil ek þó frjáls vera ok engan skatt gjalda.“ Þórormr

kveðst ætla, at hann mundi óvitrliga fyrir búast: „Ok hefir þeim mönnum eigi veitt, at deila kappi við konung, sem ekki hafa verit órikari menn enn þú ert". Ferr Þórormr á konungs-fund, ok segir honum svá búit. Konungr mælti: „Skjótt munu vér gera skiftin þá. Vér munum eignast land hans ok lausafé, enn ætla honum lengd af jörðu". Ok kvaddi til Þórorm ármann sinn, at gera til hans. Enn er Þórormr var í brottu frá Ásgrími, átti Ásgrímr þing við bœndr ok mælti: „Þat er meiri ván, at konungr sjá taki þungliga váru máli. Nú vil ek senda honum gjafir, enn eigi skatt, ok gera ek þat fyrstr minna manna". Síðan valdi hann til sendimenn, ok fœra konungi gjafir: Þat var hestr gauzkr, ok þar með mikit silfr. Komu sendimenn fyrir konung, ok mæltu: „Ásgrímr hersir sendir yðr góða kveðju ok ríki yðru, enn hann hefir spurt orðsending yðra um skatt. Enn hann vill eigi hann gjalda heldr hefir hann sent yðr margar vingjafir". Konungr mælti: „Berit aftr gjafir hans allar. Ek skal konungr í þessu landi, ok setja lög ok rétt, enn eigi hann". Nú verða sendimenn aftr at fara við svá búit. Ok á þessi stundu kom Þórormr; ok lét Ásgrímr þings kveðja. Þá stóð Ásgrímr upp ok mælti: „Vita munu þér ákall við oss af Haraldi konungi. Hygg

ek nú hér vera komna vel flesta bœndr af Þelamörk, þá er ráðamenn eru. Nú vil ek, at vér verðim samdóma fyrir konungs-mönnum, at eigi brjóti þetta á mér einum. Er þat mest ván, at konungr leggi fjandskap á þann, er fyrir beitist. Nú vil ek vita svör af yðr". Bœndr létust hann hafa fengit formælanda fyrir sik: „Enn ekki er oss um skatt at gjalda". „Þá veli þér yðr þann", sagði Þórormr, „sem verst gegnir. Hafa margir þeir borit lægra hlut fyrir Haraldi konungi, er svá mundi sýnast, sem hvergi mundu hafa minni hamingju, ok hafa þó lágt fyrir honum farit". Ásgrímr svarar: „Á þat vil ek sáttr vera, sem aðrir bœndr vilja".

2. En þingit var sett við skóg nökkurn. Enn er þingit raufst, þá mælti Þórormr við þræl sinn: „Gakk þú til ok drep Ásgrím, ok leita þegar í skóginn". Hann gerir svá: leitar fram í milli mannanna ok hjó hann þegar banahögg. Ok svá hafði konungr ráð til sett. Enn bœndr drápu þegar þrælinn. Enn Þórormr komst þó nauðuluga í skóginn undan, ok svá til skips. Ferr nú á konungsfund, ok segir honum sem komit var. Konungr mælti: „Trautt mun fást hugfullari þræll, ok því fekk ek hann til, at ek vissa, at sá mundi feigr, er hann vægi; enn sárt vilda ek leika alla þá, er mér brjótast í móti". Þórsteinn Ásgrímsson var í

hernaði, ok var manna gerviligastr, mikill ok sterkr. Enn er hann kom heim ór víkingu, komu menn á fund hans, ok segja honum líflát föður hans. Þórsteinn svarar: „Bitu hann enn ráðin Haralds konungs, enn brátt mun eftir verða ætt vára, ef Haraldr konungr skal einn fyrir sjá. Síðan varði hann föðurleifð sinni í silfr ok lausafé, ok kveðst ætla, at hann mundi eigi keppa við Harald konung. Enn þá var för mikil til Íslands ór Noregi eftir þau stórvirki, er menn ráku harma sinna. Nú bjóst Þórsteinn til Íslands, ok með honum Þórgeirr bróðir hans, tíu vetra gamall, ok Þórunn föðursystir þeira, fóstra Þórgeirs. Enn er búit var skip til hafs, þá mælti Þórsteinn við félaga sína: „Þat mundi faðir minn ætla, þá er hann lét mik eigi út bera, at ek munda nökkut minnast at hefna hans, ef hann yrði eigi sóttdauðr. Nú þó at eigi komi þar niðr sem vera skyldi, þá er þó eigi ámælis-vert, ef jafnmenni kemr fyrir. Nú vil ek fara í Þrumu til Þórorms". Ok svá gerir hann: koma þar á náttarþeli, ok tóku hús á þeim. Þá mælti Þórsteinn: „Nú skulu menn þat vita, at ek ætla hér til föðurhefnda, ok vilda ek hafa þar til yðvart liðsinni". Enn þeir sögðust honum veita skyldu, slíkt er þeir mætti. Síðan slá þeir eldi í bœinn; ok þar brann inni Þórormr, ok sveit

hans öll. Enn um morguninn höggva þeir upp búit, ok bera til skips; láta í haf eftir þat. Og lézt Þórsteinn nú fúsari í haf at láta, enn þá, at honum væri því brugðit á Íslandi, at hann hefði eigi hefnt föður síns. Þeir láta nú í haf, ok koma skipi sínu í Rangárós. Enn sá maðr var fyrir sveit, er Flosi hét, ok var Þórbjarnarson; hann var landnámsmaðr. Ríða menn til skips. Kom þar Flosi, ok kannaðist hann þegar við Þórstein, ok spurði hann, hvat hann hafi til rekit, at fara út hingat. Þórsteinn mælti: „Ek hefi farit, (sem) sumir aðrir, heldr skyndiliga af Noregi með vandkvæði, ok nú í sökum við Harald konung. Nú vilda ek hér staðfestast ok vera frjáls“. Hann kvað slíkt þá menn henda, sem ekki vilja láta yfir drífast: „Enn vér skulum þér vel fagna“. Hann nam land, at ráði Flosa, fyrir ofan Víkingalœk, ok út til móts við Svínhaga; bjó í Skarði hinu eystra. Hann átti *Þuríði*, dóttur Gunnars, Sigmundarsonar, Sighvatssonar hins rauða, er fell við Sandhóla. Sighvatr hinn rauði átti *Rannveigu*, dóttur Eyvindar lamba, Berðlu-Kárasonar, systur Finns, föður Eyvindar skáldaspillis. Sonr Þórsteins ok *Þuríðar* var Gunnarr. Þórsteinn var drengr góðr, ok sér gnógr um alla hluti. Þat er sagt, at skip kom í Rangár-ós, þat er fylgdi ósvipr mikill ok sjúkleiki; ok sá menn við, at koma til þeira, at

eigi fengi menn illindi af þeim, ok fór svá um hríð. Enn er Þórsteinn frá þetta, kvað hann mönnum eigi sama, at þeir fœrist af bjargleysi. Fór þá Þórsteinn á fund þeira, ok spyrr, með hverju móti væri sótt þeira. Enn þeir sögðust vorðnir fyrir gerningum: „Enn nú vill engi á sjá með oss“. Þórsteinn mælti: „Mun eigi þat vænst, at þér farit með oss“. Enn er þeir koma heim, kvað *Þuríðr* eigi meðal endemi í vera, hvat hann tók til, ok vildi flýja bœinn. Enn Þórsteinn kvað eigi þat skyldu, ok bjó eitt tjald skamt frá bœnum. Því var (hann) kallaðr Þórsteinn Tjaldstœðingr. Nú gerðist hallæri mikit yfir þeim, svá at engi mátti hjá þeim vera, nema Þórsteinn einn. Ok ekki var athœfi þeira fríðlegt, því at sá þeira, sem lengst lifði, fal silfr mikit, ok vildi at engi nyti. Þórsteinn átti síðar Þuríði Sigfúsdóttur. Þeira son var Skeggi, faðir Gunnars, föður Skeggja, föður Lofts, föður Guðlaugs smiðs.

34.

# Þórsteins þáttr uxafóts.

---

Þórðr skeggi hét maðr. Hann nam lönd öll í Lóni fyrir norðan Jökulsá, millum ok Lónsheiðar, ok bjó í Bœ tíu vetr. Enn er hann frá til öndvegis-súlna sinna í Leiruvági fyrir neðan heiði, þá seldi hann lönd sín Úlfljóti lög(sögu-) manni, er þar kom út í Lóni. Úlfljótr var son Þóru dóttur Ketils Hörðakára, Áslákssonar bifrukára, Unarssonar, Arnar-(sonar) hyrnu. Enn er Úlfljótr var nær sextugr at aldri, þá fór hann til Noregs ok var þar þrjá vetr. Þá settu þeir Þórleifr spaki, móðurbróðir hans lög þau, er síðan váru köllut Úlfljótslög. Enn er hann kom út, þá var alþingi sett, ok höfðu allir menn ein lög síðan hér á landi. Þat var upphaf hinna heiðnu laga: at menn skyldi eigi hafa höfuðskip í haf; enn ef menn hefði, þá skyldi þeir af taka höfuð áðr þeir kœmi í landsýn, ok sigla eigi at landi með gapandi höfðum né gínandi trjónu, svá at landvættir fœldist

við. Baugr tvíeyringr eðr meiri skyldi liggja í hverju höfuðhofi á stalli; þann baug skyldi hverr goði hafa á hendi sér til lögþinga þeira allra, er hann skyldi sjálfr heyja, ok rjóða hann þar í roðru blótnauts þess, er hann blótaði þar sjálfr. Hverr sá maðr, er þar þurfti lögskil af hendi at leysa at dómi, skyldi áðr eið vinna at þeim baugi, ok nefna sér vátta tvá eðr fleiri: „Ykkr nefnik í þat vætti", skyldi hann segja, „at ek vinn eið at baugi, lögeið; hjálpi mér svá nú Freyr ok Njörðr, ok hinn almáttki Áss, sem ek mun svá sök þessa sœkja eðr verja, eðr vitni bera eðr kviðu, eðr dóma dœma, sem ek veit réttast ok sannast ok helzt at lögum, ok öll lögmæt skil af hendi leysa, þau er undir mik koma, meðan ek er á þessu þingi". Þá var landinu skift í fjórðunga, ok skyldu vera þrjú þing í fjórðungi hverjum, enn þrjú höfuðhof í þingsókn hverri. Þar váru menn vandaðir til at varðveita hofin at hyggindi ok réttlæti. Þeir skyldu dómnefnur eiga á þingum ok stýra sakferli; því váru þeir goðar kallaðir. Hverr skyldi ok gjalda toll til hofs, svá sem nú er kirkjutíund. Böðvarr hinn hvíti af Vors ór Noregi bygði fyrstr at Hofi, ok reisti þar hof, ok gerðist hofgoði. Hann var faðir Þórsteins, föður Halls á Síðu. Þórir hinn háfi nam land í Krossavík fyrir norðan Reyðarfjörð. Þaðan eru Krossvíkingar komnir.

2. Þórkell hét maðr, er bjó í Krossavík. Hann var Geitisson. Hann var hit mesta afarmenni ok harðfengr ok kallaðr ofrhugi. Hann var þá ókvæntr, er þessi saga gerðist. Systir hans óx upp með honum, er Oddný hét; allra kvenna vænst, hverri konu hagari; þó var mikill mállaki á ráði hennar; hon hafði ekki mál, ok var með því alin. Þau unnust mikit systkin. Þórkell átti þræl einn útlendan at öllu kyni, er Freysteinn hét. Hann var hvárki ljótr né illr viðeignar sem aðrir þrælar, heldr var hann gæfr ok góðr viðrskiftis, ok náliga hverjum manni vænni; því var hann kallaðr Freysteinn hinn fagri. Krummr hét maðr; hann bjó í Krummsholti; sá bœr er nú eyddr. Hann var Vémundarson, Ásbjarnarsonar, Krummssonar hins gamla. Krummr hinn gamli fór af Vors búferli til Íslands. Hann nam land á Háfranesi inn til Þernuness ok allt hit ytra, bæði Skrúð ok aðrar úteyjar ok inn öðru megin at Þernunesi. Krummr hinn yngri átti þá konu, er Þórgunna hét ok var Þórsteinsdóttir, Vetrliðasonar, Ásbjarnarsonar, göfugs manns af Beitsstöðum, Ólafssonar langháls, Bjarnarsonar reyðarsíðu. Þórgunna var vitr kona, ok meðallagi vinsæl, mjök margkunnandi, ekki fríð, enn forn í skapi, heldr harðlynd ok þó órskiftamaðr. Krummr var óríkr maðr. Miseldri mikit var með þeim hjónum;

var Þórgunna þá roskin kona, er þetta æfintýr gerðist. Þau áttu ekki barn, svá at sögur gangi af.

3. Styrkárr hét maðr Indriðason, Hreiðarssonar. Þeir váru brœðr Hreiðarr og Ásbjörn, faðir Járn-Skeggja af Yrjum, enn systir þeira var Ólöf, er átti Klyppr hersir, er drap Sigurð konung slefu. Þeira bróðir var Erlingr, ríkr hersir af Hörðalandi. Erlingr átti þann son, (er) Ívarr hét, allra manna vænstr, þeira (er) uppi váru á Hörðalandi; því var hann kallaðr Ívarr ljómi. Hann var hverjum manni betr at íþróttum búinn, — ofmetnaðar-maðr svá mikill, at nálega máttu öngir menn mæla né gera til jafns við hann. Hann var ókvæntr langa tíma, ok því, at honum þótti sér nær hvergi fullkosta. Hann sat löngum hjá Styrkári frænda sínum á Gimsum í Þrándheimi. Þessi Styrkárr var faðir Einars Þambaskelfis. Segja þat ok sumir menn, at þeir hafi brœðr (verit) Indriði faðir Styrkárs, ok Ásbjörn faðir Indriða ilbreiðs. Ástúðigt var lengi með þeim frændum Styrkári ok Ívari. Ívarr hafðist löngum við í kaupferðum, bæði til Englands ok Danmerkr. Eitt sumar fór hann til Íslands kaupferð. Hann kom skipi sínu í Gautavík á Austfjörðum. Þórkell Geitisson reið til skips, ok bauð stýrimanni heim til sín við svá marga menn sem hann vildi með sér haft hafa. Ívarr þakkaði

bónda, ok kveðst þat þiggja mundu. Ívarr fór heim í Krossavík við fimta mann, ok sat þar um vetrinn. Ívarr (var) gleðimaðr mikill ok örr af fé. Þat var einn dag, at Þórkell gekk til tals við Oddnýju systur sína, ok sagði henni, at stýrimaðrinn var heim kominn. „Vilda ek, frændi", segir hann, „at þú þjónaðir honum í vetr, því at hér eru flestir aðrir menn í starfi". Oddný reist rúnar á kefli, því at hon mátti eigi mæla, enn Þórkell tók við ok leit á keflit; sagði svá: „Ekki er mér um at leggja mik til þjónustu við stýrimann, því at mér segir svá hugr um, ef ek geri þat at þjóna Ívari, at þar muni mikit vánt af standa". Þórkell reiddist fast, er Oddný taldist undan. Enn er hon sá þat, stóð hon upp ok gekk inn, ok tók til þjónustu Ívar, ok helt því um vetrinn. Enn er á leið, sá menn at Oddný mundi fara eigi kona einsaman. Ok er Þórkell fann þat, spurði hann Oddnýju, hversu háttat væri um hagi hennar, eðr hvárt hon væri með barni, eðr hverr þat ætti með henni. Oddný reist þá enn rúnar ok sögðu þær svá: „Eigi hefir Ívarr betr launat þér vetrvistina enn svá, at barn þat, er ek geng með, á hann við mér". Setti þá grát mikinn at Oddnýju, enn Þórkell gekk í burt. Líðr út vetrinn; ok er várar lætr Ívarr búa skip sitt í Gautavík. Ok er þat var búit, býst Ívarr brott ór Krossavík ok hans menn.

Þórkell ríðr í veg með Ívari, ok er þeir höfðu riðit nökkura stund, veik hann til við stýrimann: „Hvert ráð gerir þú, Ívarr, fyrir barni því, er þú átt við Oddnýju systur minni, eðr viltú gera vel ok ganga at eiga hana, enn ek mun gœða hana svá penningum, at þú sér sœmdr af". Ívarr brást við reiðr mjök ok svaraði: „Til ills eyrendis hefða ek þá farit til Íslands, ef ek skylda eiga systur þína mállausa; hefir mér kostr verit œðri kvenna ok kynstœrri heima á Hörðalandi eðr þó víðara í Noregi. Enn þú þarft eigi at kenna mér barn systur þinnar, þó at hon eigi við þrælum þínum. Hefir þú talat við mik mikla svívirðing". Þórkell svarar: „Vilir þú eigi ganga við barni Oddnýjar, ok smá bæði mik ok hana í orðum, skaltú sjálfan þik fyrir finna. Hefi ek eigi þolat mönnum fyrrmeir þvílíka smán". Ívarr hjó þá til Þórkels; þat högg kom á fótinn ok varð mikit sár. Þórkell brá þá sverði ok hjó til Ívars; enn hann reið undan, enn höggit kom á hestfótinn, svá at af tók. Stökk Ívar þá af baki ok rann eftir félögum sínum, enn Þórkell reið heim í Krossavík. Annan dag eftir safnar Þórkell mönnum, ok reið í Gautavík með þrjátigu manna. Enn er hann kom þar, hafði Ívarr kipt bryggjum, enn vindr stóð af landi ok sigldu svá til hafs, ok linti eigi fyrr enn hann kom til Noregs, ok fór svá heim

á Hörðaland ok settist um kyrt. Þórkell reið heim í Krossavík ok undi lítt við sinn hag, því at hann hafði eigi meiri smáu fengit enn þessa alla saman.

4. At miðju sumri eða litlu síðar fœddi Oddný barn. Þat var sveinbarn svá mikit, at menn þóttust ekki barn meira nýfœtt sét hafa. Þórkatli var sagt, at systir hans var léttari orðin at því barni, er ætti við henni Ívarr ljómi. Enn er Þórkell heyrði þat, varð hann œsilega reiðr ok sagði at út skyldi bera. Enn þat var þá lög í þann tíma, at út skyldi bera óríkra manna börn, ef vildi, ok þótti þó eigi vel gert. Þórkell lét kalla Freystein þræl, ok bað hann tortíma sveininum. Enn hann taldist undan, þar til er Þórkell sagði á reiði sína. Þá var Geitir faðir Þórkels vistum með Þórkatli syni sínum; hann talaði um, at sveininn skyldi eigi út bera; sagði sér svá hugr um segja, að sá sveinn mundi ekki lítill fyrir sér verða, ef hann næði lífi at halda. Þórkell var svá œfr, at hann vildi ekki á þat heyra, ok kvað ekki annat skyldu enn piltrinn væri út borinn. Nú gekk Freysteinn, þó at nauðigr fœri, til Oddnýjàr ok tók upp sveininn ok gekk út með ok til skógar. Hann vafði piltinn í einum dúk, ok lagði flikkis-sneið í munninn; hann gerði skjól undir viðarrótum ok lét þar koma í barnit, ok bjó vel um ok gekk svá frá; fór

heim síðan ok sagði bónda, at hann hefði fyrir sét barninu. Bóndi lét vel yfir, ok var nú kyrt um hríð.

5. Bráðliga eftir þetta er þat at segja, at Krummr bóndi fór í skóg sinn at sœkja við; hann heyrði barnsgrát ok fór þangat til, ok fann sveinbarn bæði mikit ok vænligt; þar lá hjá fleksneið, er hann þóttist vita at fallit mundi hafa ór munni barnsins ok því mundi þat œpt hafa. Spurt hafði Krummr, at barn hafði verit út borit í Krossavík ok hversu Þórkell hefði hart um mælt; þóttist vita, at þetta sama mundi vera. Enn með því at þeir Þórkell váru miklir vinir, ok hins annars, at hann sá, at þat var bæði glœpska ok skaði, at þar dœi svá mannlegt barn ok líkligt til stórra afdrifa, þá tók hann þat upp ok hafði heim með sér ok gerði ekki orð á. Þat var á fjórða dœgri, er barnit fanst, frá því er þat var út borit. Krummr gaf nafn piltinum ok kallaði Þórstein, ok kallaði sinn son vera. Um þetta urðu þau Þórgunna samráða. Vex Þórsteinn nú þar upp, ok leggr Þórgunna við hann ástfóstr, ok kennir honum margt í frœðum. Þórsteinn gerðist bæði mikill ok sterkr ok viðleitinn um allar íþróttir. Hann var svá sterkr, at þá er hann var sjau vetra gamall, sambauð hann at afli rosknum mönnum, þótt fœrir væri. Þat var einn dag sem oftar,

at Þórsteinn kom til Krossavíkr; hann gekk til stofu. Þá sat Geitir faðir bónda á palli ok þuldi í feld sinn. Enn er piltrinn kom í stofuna, þá fór hann mjök geystr sem börnum er títt; fellr hann á stofugólfinu. Ok (er) Geitir sér þetta, skellir hann upp ok hlær. Enn er Oddný sér piltinn, setr at henni grát mikinn. Piltrinn gengr innar at Geiti ok mælti: „Hvárt þótti þér þetta allbrosligt, er ek fell áðan?" Geitir svarar: „Þat er satt því at ek sá þat, er þú sátt eigi". „Hvat var þat?" sagði Þórsteinn. „Þat má ek segja þér", [sagði Geitir]; „þá er þú komt í stofuna, fylgdi þér einn hvítabjarnar-húnn ok rann fyrir innar á gólfit; enn er hann sá mik, nam hann staðar, enn þú fórt heldr geystr ok felt þú um húninn; þat er ætlan mín, at þú sér eigi sonr Krumms né Þórgunnar, heldr mantú stœrri ættar". Piltrinn settist niðr hjá Geiti ok skrumuðu þeir. Enn er kveldaði, sagðist Þórsteinn heim skyldu. Geitir bað hann koma þar oft, „því at mér þykkir sem þú munir eiga hér kynni". Enn er piltrinn var út genginn, kom Oddný þar ok fœrði Þórsteini klæði nýskorin; fór hann síðan heim. Vandi hann nú kvámur sínar til Krossavíkr. Þórkell gaf sér fátt at piltinum, enn þótti hann þó frágerðamaðr at vexti ok afli. Geitir sagði Þórkatli syni sínum, at þat væri hans ætlan, at þessi Þórsteinn væri son

Oddnýjar ok Ívars ljóma, ok mundi verða mikill maðr fyrir sér. Þórkell kveðst eigi kunna at synja, „skulu vér hér fá sannar fréttir af". Ok um morgininn sendir Þórkell eftir Krumm ok Þórgunnu ok Þórsteini; ok er þau kvámu, spurði Þórkell glöggliga at, hversu Þórsteinn væri til kominn. Enn þau hjón sögðu allt, hversu til komit var; sagði Freysteinn ok sína sögu ok bar allt saman. Þótti Þórkatli nú vel um gengit, ok kunni Freysteini þakk(ir) fyrir. Vaknar Þórsteinn nú við ætt sína, ok fór hann nú vistafari til Krossavíkr ok gerir Þórkell við hann raunvel.

6. Þat er sagt eitt haust, er menn skyldu á fjall ganga, beiddi Þórkell Þórstein frænda sinn fara með þeim. Hann játaði því; hann var tíu vetra gamall þá. Freysteinn kveðr hann til ferðar með sér. Þeir fara sem þeim liggja leiðir, — finna margt fjár. Ok er þeir fara heim á leið, koma þeir í einn dal djúpan; eru þá tveir saman, Þórsteinn ok Freysteinn. Þá kveldaði mjök. Þeir sá þar einn haug stóran. „Hér ætla ek í nátt at vera", segir Þórsteinn, „ok skaltu vaka í nátt, Freysteinn, ok vekja mik eigi, hversu sem ek læt í svefni, því at þar þykki mér á liggja". Freysteinn játaði því. Síðan sofnaði Þórsteinn; ok er á leið náttina, lét hann illa í svefni, því at hann brauzt um á hnakki ok hæli; því gekk allt

til dags. Freysteinn efaðist í, hvárt hann skyldi vekja Þórstein eðr eigi; miklu váru hans læti erviðlegri. Enn er lýsti af degi, vaknaði Þórsteinn, ok var þá sveittr mjök ok mælti: „Dyggiliga hefir þú enn vakat, Freysteinn; hefir þú nú gert þá tvá hluti, at hvárrtveggja væri launa verðr: í fyrstan tíma er þú fórt með mik ok nú. Skal ek nú því launa þér, at ek skal fá fyrir þik frelsi af Þórkatli frænda mínum, ok hér eru tólf merkr silfrs, at ek vil gefa þér. Enn nú vil ek segja þér draum minn. Mér þótti haugr sjá opnast, ok gekk þar út ór maðr rauðklæddr; hann var mikill maðr vexti, ok ekki aðalliga illiligr“. Hann gekk at Þórsteini ok heilsaði upp á hann. Þórsteinn tók honum vel ok spurði hann at nafni eðr hvar hann ætti heima. Hann lézt Brynjarr heita ok eiga heima í haugi þeim, „er þú sér standa hér í dalnum. Enn veit ek, hvat þú heitir ok svá hvers kyns þú ert, ok svá þat, at þú mant mikill maðr verða fyrir þér, eðr viltú fara með mér ok sjá hýbýli mín?“ Þórsteinn játaði því ok stóð upp ok tók öxi sína, er Þórkell hafði gefit honum; ganga inn í hauginn, Enn er Þórsteinn kom þar, sýndist honum þar vel fyrirbúit. Hann sá þar til hœgri handar sitja ellifu menn á bekk. Þeir váru allir rauðklæddir ok heldr fáligir. Öðrumegin í hauginum sá hann sitja tólf menn.

Þeir váru allir bláklæddir. Sá var [einn] þeira mestr ok illiligr. Brynjarr laut at Þórsteini ok mælti: „Sá er bróðir minn, hinn mikli maðr, ok erum vit þó ekki skaplíkir; hann heitir Oddr ok vill flestum illt; hann veitir mér þungar búsifjar; enn hann er því öllu sterkari enn ek, sem hann er meiri vöxtum; enn ek hefi orðit at játta því ok mínir menn, at fá honum hverja nátt mörk gulls eðr tvær merkr silfrs, eðr einhvern grip jafnan þessu. Hefir nú svá fram farit hinn næsta mánuð ok gerumst vér nú farnir at lausafé. Oddr hefir at varðveita gull þat, er sú náttúra fylgir, at hverr maðr, sem mállaus er ok leggr þat undir tungurœtr sér, þá tekr þegar mál sitt, ok af því gulli má móðir þín mál fá; enn Oddr geymir þat svá ríkt, at þat gengr aldri af honum hvárki nótt né dag“. Nú sezt Brynjarr niðr hjá sínum kumpánum, enn Þórsteinn sitr þeira yztr. Enn er þeir hafa setit um hríð, stóð Brynjarr upp ok gekk yfir at Oddi bróður sínum, ok afhendi honum einn hring digran. Oddr tók við þegjandi, enn Brynjarr gekk aftr til sætis síns. Svá stóð upp hverr at öðrum, ok fœrðu Oddi allir nökkurn grip, enn hann gaf engum þökk í móti. Enn er þeir höfðu þetta allir (gert), þá mælti Brynjarr: „Þat mun þér ráð, Þórsteinn, at gera sem aðrir ok fœra Oddi

nökkurt gjald; eigi mun annat duga með því at þú sitr á várn bekk". Oddr var ýgldr mjök, ok sat upp mjök gneypr ok heldr ófrýniligr. Þórsteinn stóð þá upp ok helt á öxi sinni. Hann gekk yfir at Oddi ok mælti: „Ekki er ek plaggamargr til, Oddr, at lúka þér gjald þetta; muntú ok ekki mikilþægr at við mik, því at ek er ólíkr". Oddr anzaði ok heldr stutt: „Ekki er mér um kvámu þína hingat, enn muntú eigi frammi láta þat er þér líkar?" „Ek hefi ekki til nema öxi mína, ef þú vilt hana taka", [segir Þórsteinn]. Oddr rétti höndina í móti, enn Þórsteinn höggr til hans; kemr þat í höndina ofan ölnboga ok tekr af. Oddr sprettr þá upp ok allir þeir, er (í) hauginum váru; vápn þeira hengu uppi yfir þeim; grípa þeir þau; slœr nú með þeim í bardaga. Þat sér Þórsteinn, at nú er ekki fjarri um með þeim, Þórsteini ok Oddi, er Oddr var einhendr. Allir lítast honum hinir bláklæddu menn harðfengari; þat sér hann ok, þó at þeir höggist af hendr eðr fœtr eðr særist öðrum stórsárum, þá eru þeir á annarri stundu heilir. Enn þat er Þórsteinn hjó, þá var þat eftir eðli. Eigi linti Þórsteinn fyrr, ok þeir Brynjarr allir saman, enn Oddr var drepinn ok þeir allir kumpánar. Þórsteinn var þá mjök móðr, enn ekki sárr, því at Brynjarr ok hans félagar höfðu hlíft Þórsteini við höggum öllum. Brynjarr tók

nú gullit af Oddi dauðum ok fekk Þórsteini, ok bað hann fœra móður sinni. Hann gaf honum tólf merkr silfrs í sjóði ok mælti: „Mikit frelsi hefir þú unnit mér, Þórsteinn, því at nú ræð ek hér haugi ok eignum; mun þetta upphaf þinna þrekvirkja, er þú munt vinna útanlendis. Þú munt ok taka siðaskifti, ok er sá siðr miklu betri, þeir sem hann mega hljóta, enn hinum er erfiðara um, sem eigi eru til þess skapaðir ok slíkir eru sem ek, því at vit brœðr várum jarðbúar. Nú þætti mér miklu máli skifta, at þú kœmir nafni mínu undir skírn, ef þér yrði þat auðit at eiga son". „Síðan leiddi hann mik út ór hauginum, ok áðr vit skildum mælti hann: „Ef mín orð mega nökkut, þá snúist þér þín verk öll til heiðrs ok hamingju". Eftir þat snøri Brynjarr inn í hauginn, enn ek vaknaða; ok þat til marks um, at hér er nú bæði hjá mér sjóðrinn ok gullit". Síðan fóru þeir ok ráku heim fénað þann, er þeir höfðu fundit ok heimtu menn vel. Sagði Þórsteinn þenna atburð allan, ok fœrði móður sinni gullit, ok tók hon þegar mál sitt, er þat kǫm undir tungurœtr henni. Stendr þessi haugr í Jökulsdal, ok er kallaðr Brynjarshaugr, ok sér enn í dag merki.

7. Freysteinn fekk frelsi brátt af orðum Þórsteins, ok gerði Þórkell þat vel ok liðug-

lega, því at honum var vel í geði til Freysteins, því at hann vissi, at hann vár góðrar ættar ok göfgra manna fram í kyn. Grímkell faðir Freysteins bjó á Vors ok átti Ólofu Brunnólfsdóttur, Þórgeirssonar, Vestarssonar. Enn Sokki víkingr brendi inni Grímkel föður hans, enn tók piltinn ok seldi mansali; hafði Geitir hann út hingat. Þat segja sumir menn, at Þórsteinn gifti Freysteini Oddnýju móður sína. Freysteinn hinn fagri bjó í Sandvík á Barðsnesi, ok átti Viðfjörð ok Hellisfjörð, ok var kallaðr landnámsmaðr. Frá honum eru komnir Sandvíkingar ok Viðfirðingar ok Hellisfirðingar.

8. Ásbjörn kastanrassi átti skip uppi standanda í Gautavík. Þar tók Þórsteinn sér fari með honum; þá var hann tólf vetra gamall. Þórkell fekk honum fararefni, svá at honum nœgði; ok áðr Þórsteinn reið til skips, töluðust þau við ok móðir hans. Hon mælti: „Nú muntú, frændi, finna föður þinn Ívar ljóma, ok ef hann gengr seint við faðerni þínu, þá er hér einn hringr, er þú skalt fœra honum, ok seg honum, at þenna hring gaf hann mér í fyrsta sinni, ok má hann þá eigi dyljast við“. Síðan skildu þau mœðgin, ok reið Þórsteinn til skips, ok fór útan um sumarit. Komu þeir norðarlega við Noreg um haustit. Fór Þórsteinn vistfari til Styrkárs á Gimsar ok var þar um vetrinn. Fell vel á með þeim Styrkári, því at hann sá at

Þórsteinn var hinn mesti atgervismaðr, því at hann jafnvægði þá hinum sterkustu mönnum í öllum leikum. Um vetrinn nökkuru fyrir jól komu þar sendimenn Ívars ljóma, þess eyrendis, at Ívarr hafði boðit hónum Styrkári til jólaveizlu. Sá hét Björn, er fyrir þeim var. Styrkárr hét ferðinni ok fór með þrjátigu manna; þar var Þórsteinn í ferð. Þeir koma til veizlunnar; var Styrkári þar vel fagnat; sat hann hit næsta Ívari um veizluna. Fór veizlan vel fram, ok affaradag veizlunnar, áðr menn skyldu burt fara, gekk Þórsteinn fyrir Ívar ok mælti: „Þat er eyrendi mitt við þik, Ívarr, at vita hvárt þú vilt nökkut ganga við faðerni at mér". Ívarr svarar: „Hvert er nafn þitt eðr hvaðan ertú at kominn?" „Þórsteinn er nafn mitt; Oddný heitir móðir mín ok er Geitisdóttir út á Íslandi, ok hér er hringr, er hon bað mik fœra þér til jartegna, ok kvað at þú mundir kenna, at þú hafðir gefit henni". Ívarr roðnaði fast ok mælti: „Þú munt eiga allt verra faðerni; eru nógir þrælar út á Íslandi, til þess at móðir þín kenni þik. Er þat ok mála sannast, at mér þœtti eiga at leiða drengjum ok herjans sonum þat, at hverr pútuson kallaði mik föður at sér". Þórsteinn reiddist þá ákafliga mjök ok stillti þó vel orðum ok sagði: „Illa hefir þú svarat ok ódrengilega, enn svá kem ek annat sinn, at þú gengr við mér, elligar er þat bani

þinn“. Þórsteinn snýr þá í brottu. Ívarr talaði til Styrkárs: „Þat vilda ek, frændi, at þú banaðir fóli þessu, því at mér þykkir enskis ills örvænt fyrir hann“. „Eigi vil ek þat“, segir Styrkárr, „því at ek ætla hann hafa réttara at mæla enn þú, því at ek hygg, at hann sé kynstórra manna“. Skildu þeir Ívarr ok Styrkárr þá í styttingi. Fór Styrkárr heim á Gimsar ok Þórsteinn með honum. Styrkárr átti sér systur, er Herdís hét, kvenna vænst; góðr þokki var á með þeim Þórsteini. Þar var hann tvá vetr. Þá fór Þórsteinn út til Íslands ok heim til Krossavíkr, ok hafði mikit framizt í útanferð sinni. Ok er hann hafði verit þrjá vetr á Íslandi, fór hann útan með Kolbirni sneypi til Noregs. Fór hann þá enn til Styrkárs á Gimsar, ok tók hann við honum feginshendi.

9. Glöggliga er þat sagt, at þetta sumar yrði höfðingjaskifti í Noregi: felli frá Hákon blótjarl; enn í staðinn kom Óláfr Tryggvason. Hann boðaði öllum mönnum rétta trú. Þat kom fyrir Óláf konung, at flögð lægi á Heiðarskóg, svá at þar tœki af vegu alla. Konungr skýtr á húsþingi, ok spyrr, hverir fara vilja at frelsa Heiðarskóg. Maðr stóð upp mikill ok vörpuligr, er Brynjólfr hét, lendr maðr í Þrándheimi, ok mælti: „Ek vil fara, herra, ef þér vilit“. Konungi kvaðst þat vel líka. Bjóst Brynjólfr

þá við sextigu manna. Þórkell hét (maðr). Þangat ríða þeir Brynjólfr til gistingar. Tók Þórkell við þeim vel; váru þeir þar um nóttina; enn um morguninn fylgdi hann þeim á veg, ok kvað þat skaða mikinn, er konungr skyldi eigi slíkra manna lengi njóta mega. Síðan riðu þeir veg sinn ok allt þar til, er þeir sá standa skála mikinn. Þaðan sá þeir hlaupa þrjár tröllkonur, tvær ungligar ok ein stœrst. Hon var loðin öll útan sem gråbjörn. Þær höfðu allar sverð í höndum. Þeir sá ok ganga mikinn mann, ef mann skyldi kalla, ok tvá pilta með honum. Hann hafði brugðit sverð í hendi; þat var svá bjart, at sindra þótti af. Öll váru tröllin illilig at sjá. Þar slœr þegar í bardaga; varð hinn mikli maðr mjök stórhöggr, ok svá hin loðna skessa. Lýkr með því, at þar fellr Brynjólfr ok allt hans föruneyti, nema fjórir menn komust á skóg, ok fóru síðan á fund konungs, ok sögðu honum þessi tíðindi, ok spurðist þetta víða.

10. Þat er at segja, at Styrkárr talaði við Þórstein ok spurði, hvárt hann vildi fara með honum á Heiðarskóg. Þórsteinn lézt búinn þeirar ferðar. Bjuggust þeir einn morgin snemma, ok fóru á skíðum upp á fjall, ok lintu eigi fyrr enn þeir kvámu at kveldi dags til eins sæluhúss, ok ætlá þar at vera um nóttina. Skiftu þeir þá verkum: skyldi Þórsteinn

vatn sœkja, enn Styrkárr eld kveikja. Þórsteinn gengr þá út ok tók upp spjót, er Styrkárr hafði gefit honum, ok vatnsfötur í aðra hönd. Ok er hann kemr mjök til vatnsins, sá hann stúlku ganga með vatnsfötur; hon var ekki foraðshá, enn ógnar-digr. Ok er hon sér Þórstein, kastar hon niðr fötunum ok bregðr við hart, ok hleypr aftr á veg. Þórsteinn lætr ok eftir sínar vatnsfötur ok hleypr eftir; enn er stúlkan sér þat, rykkir hon hart undan. Hleypr þá hvárt sem getr, ok dregr þá hvárki sundr né saman með þeim. Gengr þessu þar til er Þórsteinn sér skála standa mjök stóran ok rammgervan; þar hleypr þessi stúlka inn í ok skellir aftr hurðu. Enn er Þórsteinn sér þat, skýtr hann eftir henni spjótinu ok kemr í skálahurðina ok flýgr í gegnum hurðina. Þórsteinn gengr þá at skálanum ok inn í, — finnr spjót sitt á gólfinu, enn ekki sér hann til stúlku sinnar. Honum verðr gengit innan um skálann ok þar til, er hann kemr at einni lokrekkju; þar brann ljós á kertistiku. Þórsteinn sér at kona liggr í sænginni, ef konu skyldi kalla; hon var bæði há ok digr ok at öllu trollslig. Hon var stórskorin mjök í andliti, enn álits bæði svört ok blá; hon lá í einum silkiserk; hann var því líkastr sem hann væri þveginn í mannablóði. Flagðit var þá í svefni ok hraut ógrliga hátt; skjöldr ok sverð

hekk uppi yfir henni. Þórsteinn steig upp á rekkjustokkinn, ok tók ofan sverðit ok brá. Hann fletti þá klæðum af flagðinu; sá hann þá at hon var öll alloðin, nema einn díli undir hinni vinstri hendi sá hann at snöggr var. Þat þóttist hann vita, at annathvárt mundi hana þar járn bíta eðr hvergi annarsstaðar. Hann leggr sverðinu á þessum sama flekk ok fellr á hjöltin; sverðit bítr svá, at oddrinn stóð í dýnunni. Kerling vaknaði þá, ok eigi við góðan draum, ok fálmaði höndunum ok spratt upp. Þórsteinn hefir allan einn rykkinn, at hann slökkvir ljósit ok stökkr upp yfir flagðit í sængina. Enn hon hleypr fram á gólfit ok ætlar at vegandinn muni til dyranna leitat hafa; enn er hon kemr þar, sœvist hon á sverðinu ok deyr. Þórsteinn gengr þá at henni, ok kippir burt brandinum ok hefir með sér. Hann gengr þá þar til, er hann kemr at hurðu; hon var greypt í stokk ok hnigin eigi allt í klofa. Hann sá mikinn mann á palli sitja ok mjök stórskorinn ok hengu yfir honum öll herklæði; á aðra hönd honum sat mikil skessa ok illilig ok ekki allellilig; piltar tveir léku á gólfinu; þeim var sprottit hár ór kolli. Skessan tók til orða: „Hvárt syfjar þik, Járnskjöldr faðir?“ „Eigi er, Skjaldís dóttir; liggja á mér hugir stórra manna“. Hann nefndi þá piltana, annan Hák enn annan Haka, ok bað þá fram ganga til

Skjaldvarar móður sinnar, ok vita, hvárt hon vekti eðr svæfi. Skjaldís svaraði: „Óráðligt er, faðir, at senda ungmenni í myrkri, því at ek vil segja þér, at ek sá í kveld hlaupa tvá menn ofan af fjalli. Þeir eru svá fóthvatir, at ek hygg at þat sé fátt af várum mönnum, at þeim standist". „Eigi þykki mér á því liggja", segir Járnskjöldr, „því at þá eina menn sendir konungr hingat, at ek óttumst þá ekki; því at þat er einn maðr, at ek hræðumst; enn sá heitir Þórsteinn, ok er Oddnýjarson útan af Íslandi. Enn svá er sem mér hangi blað fyrir auga um öll mín forlög, hvat sem því veldr". „Ólíklegt er, faðir", segir hon, „at sá Þórsteinn komi nökkurn tíma á Heiðarskóg". Piltarnir gengu nú fram, enn Þórsteinn veik sér frá. Þeir hlaupa fram ok út. Enn er nökkur stund var liðin, tók Skjaldís til orða: „Fram fýsir mik at ganga". Nú hleypr hon fram á hurðina hart ok heimsliga. Þórsteinn snýr þá undan; enn er hon kemr at útidyrum, þá fellr hon um móður sína dauða. Henni verðr þá kalt ok kynligt við. Hon hleypr þá út ór skálanum. Í því kemr Þórsteinn at, ok höggr af henni höndina með sverðinu Skjaldvararnaut. Hon vill þá inn aftr í skálinn, enn Þórsteinn verr henni dyrnar; hon hafði skálm í hendi; þau sœkjast um hríð, enn svá lýkr með þeim, at Skjaldís fellr dauð. Í því kom Járnskjöldr út;

hann hafði brugðit sverðit í hendi, bæði bjart ok bitrligt, svá at Þórsteinn þóttist ekki slíkt sét hafa. Hann höggr þegar til Þórsteins. Hann veik sér .við höggit ok varð þó sár á læri; sverðit rendi niðr í völlinn allt upp að hjöltum; laut Járnskjöldr þá við; enn Þórsteinn reiddi upp sverðit Skjaldvararnaut bæði hart ok títt, ok höggr til Járnskjaldar; þat högg kom á öxlina, tók af höndina ok fótinn; fell Járnskjöldr við. Þórsteinn lætr þá skamt stórra höggva í milli, ok höggr þá af honum höfuðit.

11. Eftir þat gengr Þórsteinn inn í skálann; enn er hann gengr inn, varð hann eigi fyrri varr við. enn hann var gripinn upp ok færðr niðr. Þórsteinn finnr þá, at þar var komin Skjaldvör kerling, ok var þá sýnu verri viðreignar enn fyrr. Hon greyfist þá niðr at Þórsteini ok ætlar at bíta sundr í honum barkann. Þórsteini kemr þá í hug, at sá mun mikill vera, er skapat hefir himin ok jörð; hafði hann ok heyrt margar sögur ok merkilegar frá Óláfi konungi ok þeiri trú, er hann boðaði. Heitr nú af hreinu hjarta ok heilum huga, at taka við þeiri trú ok þjóna Óláfi meðan hann lifði, ef hann kœmist heill ok lífs í brott, af allri kunnáttu. Ok er hon ætlaði tönnum at víkja at barka Þorsteins, enn hann hafði staðfest heitit, kemr geisli inn í skálann ógrliga

bjartr, ok stendr þvert framan í augun kerlingar. Við þá sýn varð henni svá illt, at dró ór henni mátt ok magn allt; hon tók þá at geispa niðörkliga. Hleypr þá ór henni spýja ok ofan í andlit Þórsteini, svá at náliga helt honum við bana af illsku ok óþef þeim, er af stóð. Þykkir mönnum ok eigi órvænt, at í brjóst Þorsteini muni af komit hafa nökkurr partr, sakir þess at mönnum þykkir sem hann hafi eigi síðan dyggiliga einhamr verit, hvárt er því veldr meirr spýja Skjaldvarar eðr þat, at hann var út borinn. Liggr nú hvárttveggja þeira í milli heims ok heljar, svá at þá mátti hvártki upp standa.

12. Hitt er at segja, at Styrkárr er nú í sæluhúsinu ok þykkir Þórsteini dveljast; kastar hann sér þá upp í setit; ok er hann (hefir) legit nökkura stund, hlaupa þar inn piltar tveir, mjök illsvipligir, ok hafði sitt sax hvárr í hendi; sœkja þegar at Styrkári; enn hann grípr þá stokkinn frá setinu ok lemr þá með, þar til er hann drepr þá báða. Síðan gengr hann út ór skálanum; grunar þá hvat Þórstein mun dvelja. Gengr nú þar til er hann kemr at skálanum; sér nú vegsummerki, at þar liggja tvau flögð drepin, enn Þórstein sér hann hvergi; þykkir nú uggligt, at hann muni í nökkurum nauðum staddr vera; heitir nú á skapara himins ok jarðar at taka við þeiri trú, sem Óláfr

konungr boðar, ef hann fyndi á þeiri nátt Þórstein félaga sinn lífs ok heilan. Gengr síðan inn í skálann, ok kemr þar at, sem þau Skjaldvör ok Þorsteinn liggja; spyrr þá, hvárt Þórsteinn megi nökkut mæla; enn hann segir þat eigi trauða; biðr hann hjálpa þá til. Styrkárr tekr þá til Skjaldvarar ok dregr hana af ofan. Þórsteinn stendr upp brátt, ok er stirðnaðr mjök af öllu saman umfangi því, er hann hafði átt við flögðin ok faðmlögum Skjaldvarar. Brjóta þeir þá Skjaldvöru kerlingu á háls, ok gekk þeim þat hit tregligsta, því at hon var harðla hálsdigr. Segir Þórsteinn nú Styrkári allt frá ferðum sínum. Styrkárr anzaði: „Mikill afreksmaðr ertú, svá at þat er líkast, at þessa þinna afreksverka sé getit meðan Norðrlönd eru bygð“. Taka þeir nú ok draga saman öll flögðin, ok kynda at bál ok brenna upp at köldum kolum. Síðan kanna þeir skálann, ok finna þar ekki fémætt. Fara í burt síðan ok heim á Gimsar. Spyrjast nú þessi tíðindi ok þykkja mikil vera.

13. Óláfr konungr sat á veizlu á Hörðalandi. Þangat fara þeir Styrkárr ok Þórsteinn ok ganga fyrir konung ok kveðja hann. Þar var Ívarr ljómi þá með konungi í svá mikilli virðingu, at tveir menn sátu þá upp í milli þeira konungs. Þórsteinn snýr þá fyrir Ívar með brugðit sverðit Skjaldvararnaut, ok stakk

blóðreflinum fyrir brjóst honum ok mælti: „Ger þú annathvárt, at ek þrýsti ótæpt blóðreflinum, ella gakk þú við faðerni at mér“. Ívarr svarar: „Mér þykkir sœmd í at eiga þik at syni; áttú ok svá góða móður, at ek veit, at hon mundi þat eigi sagt hafa, nema satt væri; vil ek at vísu við þér ganga“. Konungr telr þá trú fyrir þeim sem öllum öðrum, er á hans fund kvámu. Þeir létu þat auðsótt af sinni hendi. Segja þá konungi glöggliga allan atburð sinnar þarkvámu ok frá þeim tíðindum, er gerðust á Heiðarskógi. Konungr geldr þá margfalt lof Guði fyrir þær jartegnir, er hann veitti syndugum mönnum hér í heimi. Váru þeir síðan skírðir báðir; fór Styrkárr heim á Gimsar, ok helt öllum þeim veizlum, er hann hafði fyrr haft; enn Þórsteinn gerðist maðr Óláfs konungs ok fylgdi honum til dauðadags ok Ívarr faðir hans, ok þóttu vera hinir vöskustu menn.

14. Hárekr hét maðr; hann bjó í Beinu í Þrándheimi, lendr maðr ok ekki mjök vinsæll. Hann hafði tekit við kristni, enn þó var konungi sagt, at eftir mundi nökkut af fyrnsku í fari hans; því tók konungr þar veizlu, ok vildi reyna, hvat satt var í; þar var veizla fögr. Hárekr var öfundsamr ok illgjarn; honum lék öfund á virðingu Þórsteins. Þat var einn dag, at Hárekr talaði við Þórstein ok spurði hann

af sínum afreksverkum; enn Þórsteinn sagði slíkt er hann spurði. „Ætlar þú nökkurn mann sterkara í Noregi enn þik?“ segir Hárekr. „Eigi veit ek þat svá víst“, segir Þórsteinn. „Hvárr ykkar konungs ætlar þú at sterkari sé?“ segir Hárekr. „Allt mun mik meira annat skorta við konung enn afl“, segir Þórsteinn, „ok mun ek þó eigi komast til jafns við hann um þat“. Þeir skilja nú tal sitt. Ok um daginn eftir sagði Hárekr konungi, at Þórsteinn hefði jafnast til við hann um allar íþróttir. Konungr gaf sér fátt um þat. Nökkuru síðar talaði konungr um, at þeim væri þat ráð, er til hefði jafnast við hann, at reyna þá íþróttir sínar, „eða er þat satt, Þórsteinn, at þú hefir þat talat, at þú værir jafn mér at íþróttum eðr framar?“ „Eigi hefi ek svá talat, herra“, segir Þórsteinn, „eðr hverr sagði yðr þat?“ „Hárekr“, sagði konungr. „Hví sagði hann yðr síðr af blótnauti því, er hann blótar á laun, því at þat mun þó sannara. Enn þat sagða ek, herra, at mik mundi allt meira skorta við yðr enn afl, ok munda ek þó eigi komast til jafns við yðr um þat“. „Er nökkut þat satt, Hárekr?“ sagði konungr. „Lítit mun þar til hœft, herra“, sagði Hárekr. „Lát oss sjá naut þat, er þú hefir svá mikil mæti á“, segir konungr. „Þat skal í yðru valdi, herra“, segir Hárekr, „ok skulu vér þá fara fram á skóginn“. Þeir

gerðu svá; ok er þeir koma þar, sjá þeir nautaflokk mikinn; þar var með uxi ógrliga stór ok illiligr, svá at konungr þóttist slíkan ósénan hafa; hann öskraði ógrliga ok lét mjök illiliga. Hárekr mælti: „Hér er nú nautit, herra, ok hefi ek því mætr á uxa þessum, at hann er mjök elskr at mér“. „Sé ek víst“, sagði konungr, „ok lízt mér illa á; eðr hvat er nú, Þórsteinn, viltú reyna afl þitt ok taka naut þetta, því at mér þykkir sem eigi muni gagn í, at hann lifi lengr“. Þórsteinn hleypr þá fram í nautaflokkinn, ok þar at, sem uxinn var. Nautit snýr undan, enn Þórsteinn gripr í fótinn hinn eftra, ok svá hart, at bæði rifnaði húð ok hold, svá at fótrinn gekk af með öllu þjóinu, ok helt á eftir, ok gekk svá fyrir konung; enn blótnautit datt niðr dautt. Enn svá hafði nautit við spyrnt rammliga, at þat var sokkit hinum fyrrum fótum niðr í jörðina upp at knjám. Konungr mælti þá: „Sterkr maðr ertú, Þórsteinn, ok ekki mun þér aflfátt verða, ef þú átt við menska menn um. Mun ek nú auka nafn þitt ok kalla þik Þórstein uxafót, ok hér er einn hringr, at ek vil gefa þér at nafnfesti“. Þórsteinn tók við hringnum, ok þakkaði konungi, því at þat var góðr gripr. Konungr fór nú heim á bœinn ok kastaði sinni eigu þar á alt, enn rak Hárek ór landi fyrir óhlýðni sína ok blótskap.

15. Innan lítils tíma spurðist enn af Heiðarskógi, at þar lágu flögð á, svá at menn máttu þar eigi fram komast. Styrkárr sendi þá orð Þórsteini, at þeir skyldi enn fara á Heiðarskóg. Þórsteinn brá við skjótt ok fór með konungs lofi ok hitti Styrkár. Fara nú tveir samt ok koma í þat sæluhús, sem þeir váru fyrr, ok váru þar um nóttina. Um daginn eftir, er þeir váru úti staddir, sá þeir þrettán menn á skóginum, ok var eitt kona í. Þeir snúa þangat til. Þórsteinn kennir þar stúlku sína, ok hafði heldr vaxit, því at hon var nú hit mesta flagð. Hon kastaði orðum á Þórstein ok mælti: „Þar ertú kominn, Þórsteinn uxafótr, ok komtu hér svá næst, at ek mátta minni til reka: drapt föður minn, móður ok systur, enn Styrkárr brœðr mína tvá; enn þú eltir mik, varð ek hrædd mjök, sem eigi var ólíkligt um níu vetra gamla meystúlku; enn nú er ek tólf vetra. Ek fór í jarðhús eitt, er vit skildum. Enn meðan þit börðust þit faðir minn, týnda ek saman alla góðgripi þá, er í skálanum váru, niðr í jarðhúsit undir sæng móður minnar. Nökkuru síðar giftumst ek þessum manni Skelkingi, ok skilda ek þat til við hann, at hann skyldi drepa hvárntveggja ykkarn Styrkárs. Nú er hann hér kominn ok brœðr hans ellifu, ok muntú nú þurfa at sýna karlmann-

liga vörn, ef duga skal". Slœr nú síðan í bardaga með þeim. Sœkir Skjaldgerðr þar at, er Þórsteinn var fyrir svá hart, at Þórsteinn þykkist varla í meiri raun komit hafa. Enn svá lýkr þó með þeim, at Þórsteinn kemr á Skjaldgerði höggi fyrir ofan mjaðmirnar með sverðinu Skjaldvararnaut, ok tekr í sundr í miðju. Þá hafði Styrkárr drepit Skelking. Vinna þeir nú skjótt um við hina ellifu ok drepa þá alla. Síðan fara þeir í skálann, brjóta upp jarðhúsit ok bera þaðan í brott marga góðgripi. Fóru síðan heim á Gimsar ok skiftu fé með sér síðan. Bað Þórsteinn þá Herdísar systur Styrkárs ok fekk hennar. Segja menn ok, at þau ætti son, er Brynjarr hét. Fór Þórsteinn nú til Óláfs konungs ok var með honum síðan, ok fell á Orminum langa.

